# Kvedid frá Íslandi

vid

Biskups-Vígslu Hra. *St. Jónssonar.*

---

Þá var grátur
i *Gardars*-hólma
millum fjalls og fjöru,
er *Geir* enn *Gódi*
— sem var gudættadur —
fór til fedra hvíldar.

Strax fló *Vonleysi*
um váng heima
ad leita Skjaldar í Skardid;
beindi so brautar —
sú er braut opt farin —
fram til Lidheims landa.

Vakti þar ennú
sá þar vakti fyrr
Niflúng enn Nádgjarni
sem frá Hlidskjálf
um *Hrimeyu*
(strax) hvarfladi árveknis augum.

Hrundu þá úr hamri
*Hermenn* tveir
*Minervu* skyldi skreyttir,
lèk á lopt Skiöldum (þeim)
lysti jafnt af bádum
Hilmirs höndum úr.

Grípa gulligar
— þad vard *Grami* râd —
mundi metaskálar,
munda Mundáng
mid gat *Themis*
Skaut á skapa hlutum;

Seig þá skál önnur
líkt seidur drægi
enn hina uppfogadi himinn.
skjótt leit þá hvad skèdi
Skjöldung *Dana*
*Fridrik* fólkmæríngur,

Sem lèki handsöxum
á lopti þreif
Skjöld þann hærri í *Skardid*;
fanst á mundrida
fínga merki
*Steingríms* Prófasts *Jónssonar.*

Baud hann Biskup
eptir Brandúlf vera,
Klerka stjórn og stittu;
glöd vard Gardars-ey
grátur hvarf augum —
æ koma skin eptir skúrir.

Kemur því Konúngur
og kappar hans
kemur hofmanna hvad;
koma Biskupar
koma Erömudar
hans ad vídfrægja vígslu.

Koma lāng lærdir
oc leikir menn
koma börn oc brúdir;
gánga frá Gardshorni
— so fer guma hvad —
karl og Kerlíng bædi.

Glymur um Guds hús
Gledi hljómur
hríngja kluckur, hvelt,
sèst frá Heklu tind
— himinn seilir —
raudur vada viti.

Annad Islands flagg
elda glampi
— vinur vegfarenda —
snír á Snæfelli
snúdigur vindur,
ödru fannhvítu flaggi.

Vottur er virdínga
Vakt Dysa flögg
bjóda sín bústad millum.
Höfud reisa kirkjur
vid kryning hans
sem er kalt á kinnum.

Skylis vænta Skólar
vid skodun hans
rèttar nærveru nægju,
væntir verndar hans
Veikra Spítali
og kènníng Kristindóms.

Kjætist klerkdómur
— kvedur vid í tindum
Hljómur Hökulbera —
Siádu aumur á
ástand vort
fár er sá fyri bæti.

Vertu oss *Steingríma*
stikils lausum
mót hornum enna hnubbgjörnu
vær vonum af þèr góds
gæfu bætirs
þú ert gódum getin.

Vèr þeckjum þig gódann
sem gèstrisinn,
ad dug sem dagfarsprydi
reglu og rèttvísi
ertu reyndur ad,
þær beina götur til guds.

Gef vèr getum þín
so med gledi notid
sem þèr einlagt unnum.
Blómgi lystir lands
og lærdóms ment
meir sem aldir eydast.

Lifi Jöfur, lád,
lifi Biskup vel,
Öldin sæl med sólum.

